Gísli Egilsson
Lögb. P.O

# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

8. árg. WINNIPEG, JANÚAR 1894. Nr. 11.

## LUKKAN.

Sbr. ,,Lyksalig, lyksalig" eftir Ingemann. Þýtt hefir handa ,,Sam." séra Mattías Jokkumsson. — (Lag eftir Weyse.)

Hve sæl, ó, hve sæl er hver leikandi lund!
En lofaðu' engan dag fyrir sólarlags stund.

Um sólskin kvað fuglinn, hann sá hvergi skúr;
þá sólin rann í haf, var hann kominn í búr.

Um sumardag blómstrið hið saklausa hló;
en sólin hvarf og élið til foldar það sló.

Og dátt lék sér barnið um dagmálamund,
en dáið var og stirðnað um miðaftans stund.

Því bilið er mjótt milli blíðu og éls,
og brugðizt getr lukkan frá morgni til kvelds.

En gott átt þú sál hver, sem guð veitir frið,
þó gæfan þín sé hverful um veraldar svið.

Um guðs frið þú syngr og grætr ei skúr,
þó geymi þig um sólarlag fanganna búr.

Sem barn guðs þú unir sem blómstr við sól,
þó brothætt sé sem reyrinn þitt lukkunnar hjól.

Þó lukkan sé brothætt, þó ljós þitt sé tál,
sá leitar þín, sem finnr og týnir engri sál.

Hve sæl, ó, hve sæl er hver leikandi lund,
og lukkan er eilíf, þó hverfi hún um stund.



## Má reiða sig á guðspjallasöguna?

Eftir dr. *F. Godet* í Neuchatel í Sveiss.

Á afskekktum stað í heiminum fæddist maðr einn fyrir nærri því tveim þúsundum ára í fátækt og lítilmótlegum kjörum. Á þrítugsaldri kom hann opinberlega fram sem kennari, og hélt hann því starfi áfram í þrjú ár eða rúmlega það; sýnist hann eigi fyrirfram hafa sett sér neinar fastar reglur fyrir því, hvernig hann skyldi kenna, og eigi bundið sig við neina ákveðna kenningar-aðferð. Hann sagði skýrt og skorinort: „Sonrinn getr ekkert gjört af sjálfum sér, nema það sem hann sér föðurinn gjöra. Faðirinn — — — sýnir honum allt það, er hann sjálfr gjörir“ (Jóh.5, 19. 20). „Eg tala eins og faðir minn kenndi mér“ (Jóh. 8, 28). Ekkert stórkostlegt íþróttaverk framleiddi hann; eigi samdi hann nein lærð rit, er komandi kynslóðir fengi tekið við sem minnismerkjum hinna andlegu hæfilegleika hans; jafnvel um eigin kenning sína ritaði hann ekki neitt; hann talaði og læknaði. Og er hann hafði haldið starfi sínu áfram ein þrjú ár eða svo, dó hann á krossinum eins og óbótamaðr.

Nú, nítján hundruðum ára síðar, er nafn þessa manns hátt upp hafið yfir öll nöfn á jörðinni. Milíónir manna beygja kné sín fyrir honum. Ótal-margir menn hafa í dauðann gengið fyrir þá sök, að þeir játa nafn hans, og ótal-margir kjósa heldr dauðann en að afneita honum. Hinsvegar eru þeir menn til, sem af öllu hjarta hata hann og fyrirlíta. Eina óvirðingin, sem hann hefir sloppið við, er það að menn láti sér standa á sama um hann. Þá er allt kemr til alls, snýst allt um hann, því að málefni hans og guðs ríkis er orðið eitt. Hvert eitt þýðingarmikið spursmál,

er setr mannlegan anda í hreifing, stendr í sambandi við komu hans í heiminn. Meir og meir er hann að verða það, sem Jóhannes Muller kallaði hann, „lykillinn að mannkynssögunni“.

Hvern dóm eigum vér að fella um þennan stór-atburð sögunnar? Eigum vér að líta á hann eins og annan draum, er mannkynið hafi dreymt? Og sé svo, á hann þá að skoðast sem bjartr eða dimmr draumr? Er hér, ef til vill, um undarlegt útskreytt æfintýri að ræða, sem þó hefir í sér kjarna af sögulegum virkilegleik? Eða er oss unnt að öðlast áreiðanlega vissu um mann þennan, orð hans og athafnir? Getr oss virkilega tekizt, að komast að innsta eðli þessarar einstaklegu veru, svo vér fáum fullt skyn borið á það, hverja þýðing hún á að hafa bæði fyrir hið persónulega líf sjálfra vor og eins fyrir ákvörðun mannkynsins yfir höfuð?

Tilgangr ritgjörðar þessarar er í anda sannleikans að svara þessum spurningum svo ákveðið og ljóst sem höfundi hennar er unnt. Og hann mælist til þess, að menn lesi það, sem hann segir, og dœmi um það í sama anda.

---

Guðspjallasagan eða frásagan um æfi Jesú Krists, sem vér nú erum við að eiga, er ekki neinn draumaheimr eða tilbúið æfintýri, heldr erum vér í þeirri frásögu staddir á áreiðanlegum sögulegum grundvelli. Það sýna ómótmælanlega frásagnir, sem enn eru til, eftir samtíðarmenn, bæði Gyðinga og heiðingja.

*Jósephus*, sagnaritari Gyðinga, fœddist 8 árum eða því sem næst eftir dauða Jesú. Hann var fangi rómverska keisarans, þá er Jerúsalem var lögð í eyði (70 árum eftir fœðing Krists). Í Gyðingasögu sinni segir hann mjög nákvæmlega frá því, þegar fyrirrennari Jesú, Jóhannes skírari, kom fram og vann sitt verk. Mismunr sá, sem í fáeinum atriðum er á frásögu hans og guðspjallanna í nýja testamentinu, ber þess vott, að hvortveggja ritin eru sjálfstœðar frásagnir.

Frásaga Jósephusar sýnir það greinilega alveg eins og guðspjöllin, að hinn mikli iðrunarprédikari hafði mikil áhrif á þjóð Gyðinga. Jafnvel Heródes konungr var hræddr við þau áhrif og lét svo hálshöggva hann.

Annarsstaðar í sama riti segir Jósephus frá því, að þá er rómverski landshöfðinginn var fjarverandi, hafi Ananus œðsti

prestr í embættisnafni látið myrða „*Jakob, bróður Jesú, sem kallaðr var Kristr*“, alveg eins og hann á sama tíma hafi gjört við nokkra aðra þeirra manna, er höfðu forustu á hendi í söfnuðinum í Jerúsalem. Orðin: „bróður Jesú, sem kallaðr var Kristr“ hafa sumir kallað óekta og viljað stryka út, en án gildra ástœðna. Jósephus gat ekki vel talað um mann með eins algengu nafni og Jakob og látið vera að ákveða frekar, hver sá Jakob var. Samkvæmt vitnisburði nýja testamentisins veitti þessi Jakob söfnuðinum í Jerúsalem forstöðu þangað til fám árum áðr en borgin var lögð í eyði. Hinn gyðinglegi sagnaritari hefir með þessu staðfest það, að þessar tvær þýðingarmiklu persónur í guðspjallasögunni hafi virkilega verið til.

Eftir er enn að svara þeirri spurning, hvort Jósephus hafi ekki beinlínis talað um Jesúm. Og skal þá tekið fram, að til er reyndar staðr í sögu hans, þar sem komið er með stutt yfirlit yfir æfi Jesú. En svo sterk rök hafa verið leidd gegn því, að þessi staðr væri ekta, að eigi verðr á honum byggt með neinni vissu. Annaðhvort hefir einhver kristinn maðr algjörlega bœtt þeim kafla inn í frumritið ellegar þá að minnsta kosti breytt honum til stórra muna. Það er heldr ekki örðugt að gjöra sér grein fyrir Því, að Jósephus hefir ekki sagt neitt í sögu sinni um Jesúm. Hinn hebreski sagnaritari sneiðir augsýnilega með öllu móti hjá því að minnast Messíasar-vona landa sinna, svo að hann kœmi Rómverjum ekki til að líta þjóð sína grunsemdaraugum. Þegar hann talar um Messías, gjörir hann það eingöngu í því skyni að eigna Vespasían keisara þann tignartitil, hinn œðsta, er Gyðingar áttu í eigu sinni, og smjaðra þannig fyrir Rómverjum.

Stöku frásagnir um æfi Jesú hefir líka hið mikla Gyðingarit *Talmúd* inni að halda, og er það, sem elzt er í því riti, frá 2. öld. Það er mjög ólíklegt, að höfundar þess, Gyðinga-rabbínar, hafi tekið nokkuð af því, er þeir koma með, úr guðspjöllum nýja testamentisins. Það, sem þeir segja um Jesúm, hlýtr því að styðjast við sögusagnir, er voru á gangi meðal almennings um Jesúm og myndazt höfðu meðal fjandmanna hans. Í *Talmúd* er sagt, að foreldrar Jesú hafi verið *Stada* og María, og um móður hans er sagt, að hún hafi verið dóttir Elí, sem er samhljóða ættartölunni hjá Lúkasi (3, 23), ef hún er rétt skilin. Nefndir eru líka

lærisveinar Jesú, t. a. m. Mattai (Matteus), Toda (Taddeus). Talmúd kannast einnig við hinn yfirnáttúrlega mátt Jesú til að gjöra kraftaverk; höfundum ritsins kemr ekki til hugar að neita því, að þau hafi í sannleika átt sér stað. Lærisveinum Jesú, t. a. m. Jakob nokkrum frá Sekanía, eru einnig í *Talmúd* eignuð samskonar verk, en þau eru skýrð á þann merkilega hátt, að Jesús hafi komið með töfralyf nokkurt frá Egyptalandi, er hann hafi falið á bak við hörundið og með því gjört kraftaverk sín. Hefði kraftaverk Jesú ekki verið svo kunn meðal allra stétta Gyðinga, myndi menn vafalaust blátt áfram hafa neitað þeim í staðinn fyrir að vera að gjöra svona óeðlilega grein fyrir þeim. *Talmúd* getr og um hinn skyndilega voða-dauða Jesú, og nefnir hann út af því með óvirðingar-nafninu *Tabúí* (hinn hengdi), og segir hvað eftir annað, að á páskadagskvöld hafi honum hegnt verið með glœpamanna-dauða. Þó að ýms kynjatrú hafi augsýnilega komizt inn í þessar frásögur, þá er þó enginn vafi á því, að þær hljóta að vera leifar af áreiðanlegri sögn, er breiðzt hefir út á meðal þjóðarinnar.

Meðal heiðinna rithöfunda, sem minnzt hafa atburða þeirra, er hér er um að rœða, verðskulda þessir tveir rómversku sagnritarar það öllum öðrum fremr, að þeir sé nefndir: *Tacítus*, sem fœddist 25 árum eftir fœðing Krists, og *Svetóníus*, sem uppi var skömmu síðar. Út af brunanum mikla í Rómaborg árið 64 e. Kr. segir Tacítus, að Neró keisari hafi leitazt við að koma af sjálfum sér grunsemdinni um þennan hryllilega glœp. Og síðar segir hann, að þessi trúarflokkr hafi fyrst þotið upp í Júdea eins og drepsótt, að í upphafi hafi hann verið bœldr niðr með dauða höfundarins, sem krossfestr hafi verið á landstjórnarárum Pontíuss Pílatusar, en að flokkrinn hafi síðar komið fram í Rómaborg og breiðzt þar út mjög fljótt. Svetoníus segir frá því, að á þeim tíma hafi undarlegr orðrómr útbreiðzt um allt rómverska ríkið, um það, að „einhverjir úr austrlöndum myndi koma og brjótast til valda“, og bendir þessi saga greinilega á Messíasarvonir Gyðinga. Því næst minnist hann eins og Tacítus á ofsókn kristinna manna í Rómaborg. Um málsóknina á móti Jesú og hinn hræðilega dauða hans hefir mönnum þannig svona snemma verið kunnugt í Róm; og hinir mörgu píslarvottar í

hinum fjölmenna söfnuði, sem safnazt hafði í höfuðstað heimsins, eru sönnun fyrir því, að þessi þekking hafi borið ávöxt.

Af þessum frásögum Gyðinga og heiðingja er ljóst, að þó að maðr vildi nú endilega kalla söguna um Jesúm æfintýri, þá hlyti það æfintýri þó að sjálfsögðu að hafa áreiðanlegan sögulegan kjarna. Þótt hvorki hefðum vér guðspjöllin, né heldr neina sögusögn frá fornkirkjunni, vissum vér þó að minnsta kosti tvennt: 1. Jesús hefir lifað og kennt í Júdeu og framkvæmt verk, er vöktu almenna athygli; hann dó hinum smánarlegasta dauða, sem fornöldin vissi af að segja, og sá dauðdagi hlaut að vera hálfu óvirðulegri fyrir mann, sem var Gyðingr, sökum þess, að það voru hinir heiðnu Rómverjar, sem beittu þessari hræðilegu hegning við hann. 2. Þegar á síðara helmingi fyrstu aldar kannast menn við þennan krossfesta Jesúm um þvert og endilangt Rómaveldi sem fyrsta stofnanda trúarfélags eins, er algjörlega var frábrugðið kirkju Gyðinga. Um þetta trúarfélag ritar *Plinius*, sem árið 110 eftir Krists fœðing var rómverskr landstjóri í Bithyníu, í bréfi sínu til Trajans keisara, að þeir syngi lofsöngva til handa Jesú sem til guðs, og að þeir, er tilheyrðu þessu sama trúarfélagi hafi sameiginlega heitbundið sig til að lifa heilögu lífi[1].

Þetta tvennt: dauði Jesú á krossinum og stofnan kirkjunnar af honum, verðr þannig samkvæmt áreiðanlegum vottorðum hinn ómótmælanlegi kjarni í æfisögu hans. Spurningin um það, hvort treysta megi frásögu guðspjallanna, snertir að sjálfsögðu ekki þetta tvennt, heldr á hún að eins við hinar sérstöku ástœður, við orð þau og atvik, sem samkvæmt guðspjalla-frásögunni er hið einkennilega í æfi og framkomu Jesú. Það, sem þar næst liggr fyrir oss að komast til fullkominnar vissu um, er í þá átt, hvort og að hve miklu leyti frásagnir þessar verðskulda, að menn reiði sig á þær í einstökum smáatriðum.

---

Aðalatriðið er að komast til vissu um það, hvert gildi vér

[1] „Þeir syngja Kristi lofsönga sem guði, og skuldbinda sig með eiði, ekki til neins glœps, heldr til þess að stela ekki, ekki að ræna og ekki að fremja hjónabandsrof, til þess að vera trúir og skila aftr því, er þeir hafi lánað.“ Bréf Pliníusar 10,97. Sbr. *Sam.*, Apríl 1887.

eigum að eigna ritum þeim, sem flutt hafa oss æfisögu Jesú, og hver sé uppruni þeirra. Er þá fyrst að athuga þrjú fyrstu guðspjöllin, það er að segja guðspjöll Matteusar, Markúsar og Lúkasar; svo kemr þar á eftir til skoðunar Jóhannesar guðspjall, sem verðr að athuga út af fyrir sig, sökum þess, hve frábrugðið það er hinum guðspjöllunum.

1. Kristin kirkja á elzta tímabili æfi sinnar fékk ekki af ritum frœðslu um það, sem Jesús kenndi eða gjörði, heldr fyrir persónulegan vitnisburð postulanna og lærisveina þeirra. En smásaman eftir að kirkjan breiddist út fóru menn líka að finna til þarfar á því að hafa sögu Jesú fœrða í letr.

Æfa-gömul frásögn er til um það, að tollheimtumaðrinn Matteus, sem Jesús kallaði beint frá tollbúðinni til að vera lærisveinn hans og undir eins var fús til þess (Matt. 9, 9), hafi verið hinn fyrsti af lærisveinum drottins, sem nokkuð ritaði um æfi hans. Starf hans áðr var og vel líklega orsök þess, að hann fremr en hinir lærisveinarnir hafði lært að rita. Honum er eignað það, að hann hafi ritað upp *rœður Jesú*, eða með öðrum orðum fœrt í letr kenningar hans, án þess vér þó vitum, hvort og að hve miklu leyti rœður þessar voru settar í samband við söguleg atvik í æfi Jesú.

Það er nú auðskilið, að hinn kristni söfnuðr hafi á undan öllu öðru fundið til þarfarinnar á því að eignast áreiðanlegt eftirrit af orðum og rœðum Jesú. Út frá þeim streymdi svo mjög sérstaklega hið nýja ljós, sem upp var yfir jörðina runnið. Með þeim var nýjum andlegum himni hvolft yfir söfnuðinn; það voru heilög orð, sem söfnuðrinn mátti ekki eiga á hættu að breyttist eftir því sem tímar liðu. Verk drottins aftr á móti gátu langt um fremr hættulaust um lengri tíð geymzt í manna-minnum. Sögn sú, að Matteus hafi ritað safn af rœðum drottins handa söfnuðunum í Gyðingalandi, er í sjálfu sér mjög sennileg, enda staðfestir það atvik hana til fullnustu, að efnið er eins og það er í nýja testamentis riti því, sem ber nafn þessa postula, þar sem höfuðkenningum Jesú er þar safnað saman í fimm megin-þætti, sem settir eru inn í ágripið af æfi hans, hver á sinn stað. Að hverjum einstökum þessara kenningar-kafla enduðum, byrjar sagan á ný með orðatiltœkjum, sem ávallt eru því nær eins. („Þegar Jesús hafði lokið þessari rœðu — — —“ Matt. 7, 28;

11, 1; 13, 53; 19, 1; 26, 1). Varla getr því verið nokkur vafi á því, að þessi fimm ræðusöfn hafa upphaflega verið ein heild, er síðar var aðskilin í þessa ýmsu þætti, til þess svo á eftir að þeim mætti skjóta inn í ágrip af atburðunum í æfisögu Jesú. Hið upphaflega rit postulans, sem kirkjufeðrnir geta um, er að öllum líkindum geymt oss í þessum fimm ræðuþáttum. Æfisögu Jesú hefir þá síðar verið bætt við, eflaust af einhverjum lærisveini þess sama postula, og síðan hefir ritverkið í heild sinni fengið nafnið *Matteusar guðspjall*, sökum þess að hinn eiginlegi kjarni þess var kominn frá postula þessum sjálfum. Hinir fimm ræðuþættir eru: 1. Fjallræðan, sem hljóðar um hið sanna réttlæti, er útheimtist til að geta komizt inn í guðs ríki (5.—7. kap.); 2. Ræðan um skyldur þeirra, sem postulaembættið hafa á hendi, og um það, hvað fyrir þeim liggi, flutt af Jesú, þá er hann sendi hina tólf postula út (10. kap.); 3. Ræðan um vöxt guðs ríkis á jörðinni allt frá stofnan þess fyrir orð hins heilaga sáðmanns til þess er hin jarðneska saga þess er á enda við endrkomu drottins (13. kap.); 4. Ræðan um aga og reglu í samfélagi trúaðra (18. kap); 5. Ræðan um dóminn, er haldinn skyldi að einu leyti yfir hinum andlegu leiðtogum Gyðinga og Jerúsalemsborg, og að hinu leytinu yfir kirkjunni sjálfri og gjörvöllum heimi (23.—25. kap.).

Það er nú nokkurn veginn almennt viðrkennt á vorri tíð, að þessir fimm ræðuþættir sé færðir í letr af Matteusi; og sé það virkilega satt, þá höfum vér hina beztu trygging fyrir því, að þessi hluti, sem er svo afar þýðingarmikill, af starfi Jesú, hafi geymzt í áreiðanlegri mynd. Og í raun og veru er það svo, að að ræður Jesú í fyrstu guðspjöllunum bera á sér stimpilinn af þjóðarástandi Gyðinga á þeirri tíð.

2. Önnur hlið á hinni opinberu starfsemi Jesú er *hinir sögulegu atburðir*. En þá kemr spurningin, hvort vér höfum eins áreiðanlega þekkingaruppsprettu, að því er snertir þessa atburði, eins og vér höfum hjá Matteusi, að því er kemr til orða Jesú.

Meðal kirkjufeðranna er það mjög almennt álit, að annað guðspjallið, sem kennt er við Markús, sé skrásett af Jóhannesi þeim, er að auknefni var kallaðr Markús. Samkvæmt Gjörðabók Postulanna átti hann ásamt móður sinni heima í Jerúsalem um það leyti, er Kristr var krossfestr; starfaði hann síðar

ásamt þeim Páli og Barnabas, og enn seinna með Pétri, að útbreiðslu kristninnar trúar (Pg. 12, 12; 13, 5 og 13; 15, 39; 1. Pét. 5, 13). Það er sagt hann hafi ferðazt með Pétri sem túlkr eða skrifari Hann heyrði þann boðskap, sem Pétr flutti söfnuðunum, og færði hann í letr, þó eigi í ákveðinni röð, heldr smásaman eftir því sem boðskaprinn var fram fluttr: Það voru látlausar, einfaldar frásögur, sem vel áttu við hina andlegu þörf allra áheyranda. Hann lét sér þannig nægja að knýta frásögur þessar hverja við aðra, án þess að hirða um nokkra nákvæmni að því er snerti tíma-niðrröðun, og hugsaði að eins um að skýra nákvæmlega frá þeim atburðum, sem hann hafði heyrt.

Efni sjálfs guðspjallsins og allr ytri frágangr þess ber þess greinilegan vott, að þessi lýsing (kirkjufeðranna) á uppruna þess sé áreiðanleg. Það kemr ekki með neinar slíkar miklar ræður sem þær, er standa í guðspjalli Matteusar. Frásagan leiðir fram fjölda atburða, og eina bandið, sem tengir þá hvern við annan, er hin óendanlega lotning fyrir *honum*, sem er höfuðpersónan í öllum þessum sögum. Sá, er frásöguna les, fær ósjálfrátt þá skoðan, að tilgangr höfundarins hafi enginn annar verið með ritverk þetta en að vekja sömu trúarundran hjá þeim, er læsi eða heyrði, og kviknað hafði í brjósti þeirra manna, er upphaflega voru vottar að þessum atburðum. Svo getr enginn ritað nema sá, er verið hefir sjálfr sjónarvottr. Með því skýrist líka, hvernig stendr á hinum mörgu einkennilegu smádráttum, sem guðspjall þetta er svo fullt af og gjörir frásöguna svo fjöruga. Til dæmis viljum vér minna á frásöguna um hinn unga auðuga mann, þar sem svo er komizt að orði: „Jesús leit þá til hans, elskaði hann og mælti“ (Mark. 10, 21). Í sögunni um það, hvernig Jesús lét sjóinn verða kyrran, er þessi athugasemd: „En hann svaf á kodda í skutnum“ (4,38). Þar sem sagt er frá mállausa og heyrnarlausa manninum, stendr svo: „(Jesús) leit upp til himins, andvarpaði og sagði við hann: Effata!“ (7, 34). Í frásögunni um blinda manninn í Jeríkó, sem læknaðr var, stendr þetta: „Hann kastaði þá yfirhöfn sinni, stóð á fætr og kom til Jesú“ (10, 50), þar sem frá því er skýrt, að Jesús hafi læknað mann einn með visna hönd, er þetta tekið fram: „Hann litaðist um með reiðisvip og varð hryggr yfir harðúð hjartna þeirra“ (3, 5). Frá síðustu ferð Jesú til Jerúsalem er byrjað að segja með þess-

um orðum: „Nú héldu þeir til Jerúsalem; gekk þá Jesús á undan þeim, en þeir voru felmtrsfullir og fylgdu honum með ótta“ (10, 32). Allsstaðar í sögu Markúsar verða fyrir oss svona lagaðir virkilegleika-uppdrættir, sem benda á höfund, er sagt hefði getað: Eg var sjálfr viðstaddr, þegar þetta gjörðist. Vér skulum enn fremr benda á það, að í frásögu Markúsar er oft þegjandi gengið fram hjá þeim atriðum, sem tekin eru fram í Matteusar guðspjalli og sýna hina góðu eiginlegleika Pétrs; en aftr á móti er allt tekið með inn í sögu Markúsar, sem orðið gat postula þessum til auðmýkingar, og mjög nákvæmlega frá því sagt. Má af því hiklaust draga þá ályktan, að sagan sé upphaflega frá Pétri sjálfum, sem í hinum munnlegu ræðum sínum sneiddi hjá því, sem gat verið honum til heiðrs, en dró það aftr á móti fram, sem var honum til vansæmdar.

Af Markúsar guðspjalli getum vér þannig fengið eins áreiðanlega þekking á hinni annarri hlið á æfisögu Jesú, það er að segja hinum ytri atburðum í þeirri sögu, eins og af Matteusar guðspjalli með tilliti til kenningar Jesú. Margir halda því fram, að eigi sé yfir höfuð unnt að vita neitt með vissu um einstök atriði í æfi frelsarans; en nú er sýnt, að þessi staðhæfing er ósönn. Það dugir með engu móti að taka eins lítið tillit til annarra eins votta og Matteusar og Pétrs eins og þeir menn gjöra, sem að eins glotta eða yppta öxlum, þegar talað er um áreiðanlegleik guðspjallssögunnar. Annar eins maðr og Renan viðrkennir, að Markúsar guðspjall hafi ritað verið áðr en sjónarvottarnir allir að atburðunum í æfi Jesú voru andaðir. Að efast um áreiðanlegleik rita þessara gæti maðr ekki nema með því móti að vera líka í efa um það, hvort postularnir, mennirnir, sem frásögur rita þessara eru upphaflega frá, hafi yfir höfuð verið vandaðir, óljúgfróðir menn. En jafnvel Strauss álítr óhæfu að hreifa annarri eins efasemd.

3. Þriðja uppsprettan, sem vér fáum þekking frá um æfisögu Jesú, hefir ekki eins og þær tvær, sem nefndar eru, þann kost, að flytja oss söguna beint frá sjónarvotti, en í þess stað hefir hún sér það til ágætis, að þar eru leiddar saman í eina náttúrlega heild hinar tvær hliðar á sögu drottins, sem þeir Matteus og Markús að nokkru leyti koma með aðskildar. Vér eigum hér við guðspjall það, sem ber nafn Lúkasar.

Af hinum stutta formála, sem höfundr rits þessa byrjar það með, fáum vér nægilega fræðslu um uppruna þess. Hreinskilni höfundarins kemr vel og fagrlega fram í þeim inngangsorðum. Hann telr sig hvorki með postulunum, né til þeirra manna, sem sjónarvottar voru að atburðunum í æfi Jesú. Hann setr sig í röð með þeim mönnum, sem á undan honum höfðu tekið sér fyrir hendr að fœra í letr frásagnir um þá atburði, og játar hiklaust, að hann hafi að eins heyrt um þá af munni hinna upphaflegu votta. Úr því, sem hann skortir að persónulegum kunnugleik, hefir hann leitazt við að bœta með nákvæmum rannsóknum um upphaf atvika þeirra, sem frá er sagt, og um rétta tíma-niðrröðun þeirra. Í fornkirkjunni var rit þetta ásamt Gjörðabók postulanna, sem er að skoða eins og síðara hluta alls verksins, eignað guðspjallamanninum Lúkasi, er var læknir og í fylgd með Páli postula á kristniboðsferðum hans meðal heiðingja. Nafn Lúkasar kemr hvergi fyrir í guðspjallasögunni og örsjaldan í bréfum Páls. Getum vér af því dregið þá ályktan, að það sé ófalsað, þar sem svo lafhœgt hefði verið að kenna ritið við einhvern mann, sem langt um meir var þekktr. Vér höfum því hér fyrir oss rit, sem saman er tekið af lærisveini og förunaut hins mikla heiðingjapostula. Hann þekkti mörg rit, sem voru um sama efni. Hann hafði víða ferðazt, meðal annars sérstaklega í Gyðingalandi, þar sem hann dvaldi í tvö ár ásamt með Páli postula (Pg. 21, 17 og 18, sbr. 27, 1). Á ferðum þessum safnaði hann eflaust öllum þeim frásögum úr æfisögu Jesú, sem hann gat náð í, í þeim tilgangi, að velja svo úr þeim öllum það, sem almennt var kunnugt og viðrkennt, raða efninu niðr eftir tíma og fylla í eyðurnar. Hver einasta blaðsíða af riti Lúkasar ber vott um hreinskilni hans, alvöru og lifandi trú, og þegar til þessa er tekið tillit, getr manni eigi til hugar komið, að þessi höfundr með nokkru móti hafi getað lagt sig niðr við það, að breyta nokkru í orðum eða gjörðum Jesú eða spinna sjálfr upp eitthvað algjörlega nýtt og setja það inn í æfisögu Jesú. Maðr sá, sem hefir einlæga trú, eins og Lúkas eflaust hafði, býr ekki til efni trúar sinnar, heldr tekr hann við því og heldr því föstu. Þar sem Lúkas þannig segir frá fjölda atburða, sem Markús getr ekki um, þar sem hann dreifir orðum Jesú, sem Matteus safnar saman í langar rœður, og kemr þeim fyrir á ýmsum stöðum og gjör-

ir um leið nákvæma grein fyrir hinum sögulegu atvikum, er gáfu tilefni til þeirra orða, þá hlýtr þetta að vera sprottið af hinum sérstöku rannsóknum, sem hann hafði gjört viðvíkjandi hinum ýmsu atriðum í æfisögu Jesú, og er það í nákvæmri samhljóðan við það, sem hann setr sér fyrir í guðspjalls-innganginum. Samvizkusemin og nákvæmnin í sögu hans sýnir sig bezt, ef maðr ber frásögu hans um innsetning heilagrar kvöldmáltíðar saman við það, er Páll postuli segir um sama efni (1. Kor. 11), eða tekr eftir því, hvílík samhljóðan er á frásögum Lúkasar um hinar ýmsu opinberanir frelsarans eftir upprisuna og því, er Páll segir í 15. kap. bréfsins til Korinþumanna,

(Framhald í næsta blaði).

---

## Sálmr.

eftir H. Chr. Sthen. Þýddr handa „Sam." af séra Valdemar Briem.

---

Ó, hvert skal eg flýja, þá hjartað er þreytt?
— Ó, minn guð, hinum bágstöddu bjarga!
Þú, guð, einn fær huggun í hörmungum veitt.
— Því að sorgin, hún mæðir svo marga.

Já, þeir eru sælir, er sorgin leggst á.
— Ó, minn guð, hinum bágstöddu bjarga!
Þeir hrelldu, kvað frelsarinn, hugsvölun fá.
— Því að sorgin, hún mæðir svo marga.

Nú ógnarlegt reiðarslag hefir mig hitt.
— Ó, minn guð, hinum bágstöddu bjarga!
Þú, drottinn, ert einasta athvarfið mitt.
— Því að sorgin, hún mæðir svo marga.

Þú, guð, hefir sjálfr oss gefið það boð:
— Ó, minn guð, hinum bágstöddu bjarga!
að vér þig í dauðanum veljum oss stoð.
— Því að sorgin, hún mæðir svo marga.

Þú segir: „Ó, komið þér, komið til mín!"
— Ó, minn guð, hinum bágstöddu bjarga!

„er þung verðr byrðin og þróttrinn dvín."
— því að sorgin, hún mæðir svo marga.

Eg svala vil yðr og hressa vil hér.
— Ó, minn guð, hinum bágstöddu bjarga!
því sálar og líkama læknir eg er.
— því að sorgin, hún mæðir svo marga.

Ó, drottinn, eg bið þig: Mig yfirgef ei!
— Ó, minn guð, hinum bágstöddu bjarga!
Við brjóst þitt eg ligg, hvort eg lifi' eða dey.
— því að sorgin, hún mæðir svo marga.

## Lausn kirkjunnar á Íslandi við ríkið.

*Kirkjublaðið* hefir lýst yfir því, að það sé með afnámi ríkiskirkjunnar á Íslandi, — vilji berjast fyrir því, að lúterska kirkjan þar heima verði að sjálfstæðu félagi, algjörlega óháðu hinni borgaralegu landstjórn.

það segir, sem satt er, að öll hin kirkjulega löggjöf landsins á síðasta aldarfjórðingi hafi verið í sjálfstæðisáttina. það segist þakka þeim mönnum, sem unnið hafa að þeirri löggjöf, alveg eins fyrir það, þótt þeir haldi nú dauðahaldi í steininn, sem þeir hafi losað, því að þyngdarlögmálið sjái um sig. Og svo mikill virðist blaðinu orðinn þungi þessara kirkjulegu frelsisumleitana á Íslandi, að það sé þegar orðið tímabært spursmál að „taka nú fyrir aðskilnað ríkis og kirkju sem eitt hið þýðingarmesta mál hinnar íslenzku kirkju."

Og þar með setr hið háttvirta *Kirkjublað* það á prógramm sitt að vinna að þessum aðskilnaði.

Oss er þetta svo sem að sjálfsögðu sannarlegt gleðiefni. *Sameiningin* hefir frá upphafi æfi sinnar verið þess fulltrúa, að kirkjan á Íslandi þyrfti að losna frá landstjórninni, hefir æfinlega haldið því fram, að aðskilnaðr ríkis og kirkju þar heima væri eitt af lífsspursmálum þjóðarinnar. Svo yfirlýsing *Kirkjublaðsins* gat ekki annað en glatt oss. Ritstjórinn fær náttúrlega þakklæti fyrir hana frá öllum þeim, sem svipaða skoðan og vér hafa á íslenzkum kirkjumálum.

það á líklega nokkuð langt í land, að þetta mál vinnist: — kirkjan á Íslandi fari að eiga heima utan við landstjórnina. En það atvik, að málgagn hinnar íslenzku kirkju, hið eina, sem hún á í eigu sinni þar heima, er allt í einu orðið með þessu máli, orðið ákveðið í því að „heyja sannfœringarstríð“ í þessa átt, getr naumast annað en flýtt fyrir því, að sú mikla breyting á hinum ytra hag kirkjunnar á Íslandi, sem hér er um að rœða, nái fram að ganga.

þó að *Kirkjublaðið* vitanlega vilji frið innan kirkjunnar og heiti því nú, að gjöra sér allt far um, í umrœðunum um þetta mál eins og öll önnur, að „varðveita eining andans í bandi friðarins“, þá veit það þó, að baráttulaust nær lausn kirkjunnar frá ríkinu eigi fram að ganga. Margir prestar og leikmenn, sem annars eru virkilegir frelsismenn, eru enn á móti því, að landstjórnin láti kirkjuna lausa, telja það háska fyrir kristindóm þjóðarinnar, ef ríkið sleppir af honum verndarhendi sinni. Svo *Kirkjublaðið* veit vel, að stríð hlýtr að verða. Og það á sannarlega þökk skilið fyrir það, að vilja, þrátt fyrir sína meðfœddu tilhneging í friðaráttina, standa uppi í því stríði.

En blaðið hefir veðr af því, að fríkirkjuandinn liggr í loftinu, miklu sterkari en sá andi, er halda vill kirkjunni í gamla horfinu. það skilr svo vel teikn tímans, að hinn fyr nefndi andi muni innan lengri eða skemmri tíma eiga sigrinn vísan.

Út af þessari vissu er það, að *Kirkjublaðið*, þrátt fyrir ágreininginn eða stríðið, sem það veit að fyrir liggr, hugsar líkt og Júlíus Sesar, er hann hélt suðr yfir Rúbíkon: „Teningunum er kastað.“



Bókasafn séra Eggerts heitins Briems, sem mönnum kom saman um að kaupa til handa kirkjufélagi voru á síðasta ársþingi þess, kom frá Íslandi í haust hingað til Winnipeg með hr. Sigtrygg Jónassyni, og er nú geymt hjá séra Jóni Bjarnasyni. Sú upphæð, sem skotiðvar saman á kirkjuþinginu til þess að fá það til kaups fyrir og flutt hingað að heiman frá Íslandi, var talsvert minni en verðið, sem upphaflega var til tekið. Einstöku kirkjuþingsmenn eiga og enn ógreitt það, sem þeir lofuðu til

borgunar fyrir safn þetta, svo að talsverða fjárupphæð vantar enn upp á það, sem þarf í þessu skyni.

Því er það, að vér skorum nú á landa vora hér vestra, hvort heldr þeir standa í kirkjufélaginu eða ekki, að skjóta nokkrum dollurum til þessara bókakaupa. Það vantar að minnsta kosti eina 50 dollara til þess að geta borgað hið umrœdda bókasafn að fullu. Það, sem menn vilja til leggja, geta þeir sent ritstjóra *Sameiningarinnar*, og mun hann tafarlaust kvitta fyrir. Og skyldi meira fé verða skotið saman en á vantar til þess að safnið geti orðið borgað að fullu, samkvæmt því verði, er það upphaflega var boðið fyrir, þá verðr því, að því leyti sem það hrekkr, varið til þess að borga fyrir band á óbundnum bókum eða blöðum, sem í safninu eru.

---

Dr. *Philip Schaff* í New York andaðist 20. Október síðastl. Hann var víst mesti kirkjulegi rithöfundrinn, sem lifað hefir í Ameríku. Liggr eftir hann feikn öll af ágætum guðfrœðisritum í nálega öllum greinum; en einkum átti hann þó við biblíuþýðingar, kirkjusögu og samanburð á trúarjátningum kristninnar. Hann var einn guðfrœðinganna, sem unnu að endrskoðan ensku biblíu-útleggingarinnar. Dr. Schaff fœddist í Sveiss á nýársdag 1819 kom yfir um til Ameríku 1844 og var þá orðinn frægr fyrir lærdóm sinn. Heyrði hann upphaflega til hinni þýzku reformeruðu kirkju, en gekk síðar í kirkju Presbyteríana. — Hann hefir meir en nokkur annar maðr unnið að því, að gjöra það, sem bezt er í guðfrœðislegum bókmenntum Þýzkalands, kunnugt hér í álfu. Eftir fyrirmælum hans var við útför hans sunginn hinn mikli sálmr Lúters *Ein feste Burg* („Vor guð er borg á bjargi traust“).

---

Í Kristjaníu í Noregi er að meðaltali ein kirkja fyrir hverjar 13 þúsundir bœjarbúa. En í Kaupmannahöfn er hlutfallið hálfu verra: það er að segja: ein kirkja handa hverjum 26 þús. manns, og ef undirborgirnar eru teknar með, að eins ein kirkja handa hverjum 28 þúsundum. Væri hlutfallið á milli fólksfjöldans og kirknanna hér í Winnipeg hið sama og í höfuðstað Danmerkr, þá væri að eins ein — segi og skrifa *ein* — kirkja í þessum bœ.

Á eyjum þeim í Kyrrahafinu, sem Nýju Hebrídur heita, var fyrir 40 árum allt fólkið heiðið og villtar mannætur. Eyjarbúar eru 100 þúsundir, og af þeim eru nú 40 þúsundir kristnir menn. 13 tungumál eru töluð á eyjunum og hefir biblíunni verið snúið á þau öll. Settir hafa verið á fót 150 skólar, og eru margir kennaranna innfœddir þar á eyjunnm.

---

Lúterskir prestaskólar í Ameríku eru nú 26 að tölu með samtals 80 föstum kennurum og 900 stúdentum.

---

Lexíur fyrir sunnudagsskólann; fyrsti ársfjórðungr 1894.

9. lexía, sunnud. 4. Marz: Sala frumburðarréttarins: 1 Mós. 25, 27—34,
10. lexía, sunnud. 11. Marz: Jakob í Betel: 1. Mós. 28, 10—22.
11. lexía, sunnud. 18. Marz: Bindindis-lexía: Orðskv. 20, 1—7;
eða:
Blessan allra þjóða: 1. Mós. 19, 17—21.
12. lexía, sunnud. 25. Marz: Yfirlit;
eða:
Páskalexía: Mark. 16, 18.

---

TIL SKÓLANS.

Jóhann Hallson $1.50; Jóhannes Jónsson á Monntain $0.50; Tómas Halldórsson s. st. $1·00; Indriði Sigurðsson s. st. $1.00; Sv. Sölvason s. st. 0.50; Þ, G, Jónsson s. st. $0.5o; Jóhannes Torfason s. st. $0,50; Þorgrímr Árnason s, st. $1.00; E. H. Bergmann, Garðar $2.00.

Fr: J. B.

---



---

Hr. *Sigrbjörn Sigrjónsson* sendir "Sameininguna" út. Adressa hans er: 164 Kate St. Til hans snúi menn sér viðvikjandi afgreiðslu blaðsins.

---



---

„SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrir fram. — Skrifstofa blaðsins: 704 Fifth Ave. N., Winnipeg, Manitoba, Canada. — Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Páll S. Bardal, Friðrik J. Bergmann, Hafsteinn Pétrsson, N. Stgr. Þorláksson, Magnús Pálsson, Jón Böndal.

PRENTSMIÐJA LÖGBERGS — WINNIPEG.